# Agrip af Bibliugreinum

## sem innihalda

## Høfudlærdóma og Skyldur

## Kristilegrar Trúar.



Eftir at Gud fordum optsinnis og uppá margann máta hafdi látid Spámennina tala til Forfedranna, þa hefur hann á þessum sídustu tidum látid Soninn tala til vor, hvern han hefur gert erfingia allra hluta, hvern han hefir og látid skapa veraldina (Hebr. 1, 1-2.) þess heldur hæfir oss at hyggia at þeim lærdomi sem ver høfum heyrt, svo at ver ecki tøpumst; þvi se sá lærdomur stødugur vordinn, sem byrtur var af Englinum, svo hvør og ein yfirtrodsla og óhlydni feck makleg giøld, hvernveg skyldum ver þa sleppa óreffstir, ef ver hyrdum ei um svo sáluhialplegann lærdóm, hvern Drottinn siálfur í fyrstu kendi, og um hvern ver sidan erum sanfærdir af þeim sem heyrt høfdu Drottinns kenningu. Samvitnadi Gud þeim med Taknum, furdu verkum og ymislegum kraftaverkum og giøfum Heilags anda eftir sinni velþoknan (Hbr. 2, 1-4.) Øll heiløg Ritning er innbláśin af Gudi, og er nytsamleg til lærdóms, til sannfæringar, til leidrettingar, til uppfrædingar í rettlætinu, svo at Guds madur se algerr og til alls góds verks hæfilegur (2 Tim. 3, 16-17).

## Um Gud.

Gud er andi (Joh. 4, 24.) Gud er kærleikur (1 Joh. 4, 16) Gud er liós (1 Joh. 1, 5). Hver



hefur

hefur mælt vatnið í sini lúku og himnana með sinni spønn? hvor hefir mælt jarðarinnar dust í mælir, og vegið fiøllin á vog, og hæðirnar á metaskálum? hvor styrði Drottins anda og hver hefir sem raðgiafi kennt hønum? við hvern hefir hann ráðfært sig, sem hafi frædt hann og kent hønum rettarins veg? og meddeilt hønum þeckingu og vísað hønum á hygginda veg? siá Heiðingana álitur hann sem dropa (sem skvettist) úr vatns føtu og sem dustøgn í metaskál. Sia! løndunum burtsleyir hann sem lettu dusti (Es. 40, 12-15.) Hans dyrð byrgði himinin og hans lof fylti jorðina, hans byrta var sem liós, og tvø horn gengu framm af hans hendi, og þar faldist hans Stirkleiki. Pest geck undan hønum og glóandi eldur kom frá hans fótum: hann stóð og mælti landið; hann leit til og kom heiðingunum til at hrøckva: þau eilifu fiøll sundur dreifdust, þær eilifu hæðir beigðu sig, hans gángur er eilifur (Hab. 3, 3). Drottinn! þú rannsakar mig og þeckir mig; hvert sem eg sit ellegar eg stend á fætur veitstu það; þú skiniar mína þánka álengdar; þú umkringir mína vegu, og mitt legurum; þú þeckir gerla allar mínar athafnir; því það er ecki eitt einasta orð á minni túngu sem þú Drottinn eigi þeckir gersamlega; at framan og aptanverðu hefur þú gætt mín, og haldið þinni hendi yfir mer; at skilia þvilikt, er mer ofvaxit, það er of hátt, eg get eigi náð því; Hvert skal eg fara frá þínum anda? hvert skal eg flya frá þínu andliti? fari eg upp í Himinin, þá ertþú þar; bái eg um mig í undirdiúpinu, þá ertþu þar; þó eg tæki morgunroðans vængi, og flyti mig ut at ytsta hafi, svo mundi einnig þar þín hønd ná til min og þín hægri hønd halda mer føstum; þó eg segði: myrkur! fel þú mig, svo yrði nóttin siálf at liósi í kringum mig. Myrkur er eigi myrkur hiá þer, og nóttin hlytur at lysa sem dagur, myrkrið er eins og liós (Ps. 139, 1-12). Heilagur

Heilagur Heilagur er Drottinn almáttugur, sá sem var, sá sem er, og sá sem koma mun (Joh. Opinb. 6, 4, 8) hver skyldi eigi ottast þig Drottinn og vegsama þitt hafn? því þu einnsamall ert heilagur; allir heidingar munu koma at tilbidia þig, af því at þínir dómar eru kunnir vordnir (Joh. Opinbb. 15, 4). Rettvísi og Dómur er þins hásætis stadfesta, miskunsem og sannleikri skal vera þinn leidtogi (Ps. 89, 15). Stór og furdanleg eru þín verk. Drottinn Gud þú almáttugi! rettvísir og sannir eru þínir vegir, þú sem ert konungur þeirra heiløgu (Joh. Opinbb. 15, 3). Drottinn Drottinn er miskun samur og nádugur Gud, þolinmódur, harla miskunsamur og sannordur, sem audsynir miskunsemi í þúsund lidu, sem fyrirgefur misgerninga, yfirtrodslur og syndir, sem einganvegin mun álita þann seka saklausann, sem straffar Fedranna syndir á børnum og barnabørnum, í þridia og fiórda lid (2 Mos. 13, 34, 6-7). En Gud sem er ríkur af miskunsemi vegna síns mikla kærleika med hverum han elskadi oss, lifgadi oss ásamt Christo, þá ver vorum daudir í yfirtrodslum; þer erud af nád hólpnir vordnir (Eph. 2, 4-5) þrír eru þeir sem vitna á himni, fadirinn, ordid og Heilagur andi, og þessir þrír eru eitt (1 Joh. 5, 7). Gangid burt! kennid øllum þiódum og skyrid þær í nafni Fødurs og Sonar og anda Heilags (Matth. 28, 19) nád vors Drottinns Jesu Christi, Guds kærleikur og meddeiling Heilags anda veitist ydur øllum Amen (2 Cor. 13, 14).

## Um Forsiónina.

Guds nafn se blessad frá Eilifd til Eilifdar! því spekin og mátturinn er hans; því hann umbreytir hentugum og áqvørdudum tídum; hann sem affetur konungana, og sem stadfestir konungana; hann gefur

þeim vísu speki, og þeim þeckingu, sem skinia hygginda, hann opinberar diúpt hulda hlute. Hann veit hvad í myrkrinu ser, og liósid byr hiá hønum (Dan. 2, 20=22) skodid Hrafnana! ekki sá þeir ne uppskera: þeir hafa hverki búr ne hlødur og samt forsorgar Gud þá: hvad mikln ypparlegri erud þer fuglunum? En hver af ydur getur bætt einni alin vid sína hæd med vili og ahyggiu? Ef þer getid nú ecki (framqvæmt med ahyggu) þad litil siørlegasta, til hvers er þá fyrer ydur at bera áhyggu fyrir ødru? hyggid at hvernueg liliurnar vaxa, þær vinna hverki ne spinna, enn eg segi ydur at siálfur Salomon í sínu skarti var ecki eins vel klæddur sem ein af þeim; klædi nú Gud svo vel grasid sem í dag stendur á Vellinum, enn á morgun verdur í ofn kastad, hversu miklu framar ydur, o þer litiltrúadir (Luc. 12, 24=28). Hann hefur eigi láted sig siálfan án vitnisburdar, þar hann gerdi oss svo mikid godt, gaf oss døgg af himni og friósamar árs tídir, saddi oss og gladdi vor hiørtu (P. G. 14, 17) seliast eigi tveir titlingar fyrir einn pening? og ecki einn þeirra fellur á jørd án ydar Fødurs vilia, sa øll ydar høfudhár eru talin (Matth. 10, 29=30).

## Om Guds Løgmál.

Þú átt at elska Drottinn Gud þinn af øllu hiarta, allri þinni sálu og øllu þínu hugskoti, þad er þid fyrsta og stærsta bodord: enn hitt annad er þessu líkt þú átt at elska náunga þinn sem sialfann þig, í þessum tveimur bodórdum er innifalid alt løgmálid og spámennirnir (Matth. 22, 37=40). Svo er þá løgmálid heilagt og bodordid heilagt, rett og godt (Rom. 7, 12) þó einhver heldi alt løgmálid, enn yrdi brotlegur í einu bodordi, hann er sekur vid þau øll; því sá sem sagde: þú skalt eigi drigia hórdom, sagdi lika; þú

skalt

skalt eigi mann vega. Þó þú nu ecki drigir hór, yfirtredur, þú løgmálid ef þú myrdir mann (Jac. 2, 10-11). Enn ver vitum, at þad sem løgmálid ségir, ségir þad þeim, sem eru undir lógmálinu, til þess at serhver munnur verdi nidur þaggadur, og øll Verøldin sakfalli fyrir Gudi; þess vegna getur eingin manneskia rettlát vordid fyrir hans augliti af verkum løgmálsins, en af løgmálinu kemur þecking Syndarinnar (Rom. 3, 19-20).

## Um Syndafallid.

Gud skapadi manneskuna efter sinni mind, efter Guds mind skapadi hann hana; og Gud sá alt þad sem hann hafdi skapad, og siá þad var alt mikid godt (1 Mosb. 1, 27-31) siá! þad hefi eg fundid, at þad sem Gud hefir gért manneskunni, er rett; en hún, hún hefur uppfundid margslags kunnáttu (Salom. Pr. 7, 29) og Gud Drottinn baud manneskunni og sagde: af øllum triám í aldingardinum máttþú neita, enn af Skilnings trenu góds og ílls skaltþú ecki eta, því á hverum degi, sem þú etur af því, skaltþú vissulega deia (1 Mosb. 2, 16-17). Og konan sá, at tred var godt at eta af, fagurt á at líta og girpilegt til fródleiks, svo hún tók af þess ávexti, og át, og hún gaf manni sínum þar af, og hann át (1 Mosb. 3, 6) þess vegna, eins og syndin kom inn í veraldina vegna einnar manneskiu, og daudinn vegna syndarinnar, svoleidis hefur daudinn þreyngt ser til allra manna af því allir hafa syndgad (Rom. 5, 12) eins og skrifad er, þar er einginn rettlátur, ecki einn, enginn hygginn, þar er enginn sem leitar Guds; allir hafa fallid frá, allir tilsamans eru óduganlegir vordnir; þar er enginn sem godt gerir, jafnvel ecki einn einasti: þeirra barki er opin grøf, med túngunni tala þeir;

nødru

nødru eitur er á þeirra vørum; þeirra munnur er fullur af bølvi og beiskiu, þeirra fætur eru fliótir til at úthella blódi: eydilegging og eymd er á þeirra vegum, og þeir þeckia eigi fridarins veg; þeir eru án Guds ótta (Rom. 3, 10-18).

## Um Jesu Christi Tign og Embætti.

J uppþafi var Ord, og Ordid var hiá Gudi, og Gud var Ordid. Þad var í upphafi hiá gudi. Allir hlutir eru med því gerdir, og án þess er ecke gert af því sem gert er; og Ordid vard manneskia og bió medal vor, og ver sáum hans dyrd, dyrd sem hins eingetna fødursins, hann var fullur nádar og sannleiks (Joh. 1, 1-3, 14) því efter at Gud optsinnis og á margann máta hafdi látid Spámennina tala til Fedranna, let hann Soninn tala til vor á þessum sídustu tídum; hvern hann hefur gert erfingia allra hluta, hvern han einnvegin hefir látid skapa verøldina; han er geisli Guds lióma, og ímind hans veru, sem vidheldur øllum hlutum med sinu máttuga ordi, og efter at hann hafdi afmád vorar syndir settist hann til hægri handar hatignarinnar á himnum (Hebr. 1, 1-3). Hver, þóat hann væri í Guds mind, helt hann þad eigi herfáng at vera Gudi likur, heldur litilæckadi siálfann sig og tók á sig þions mind, og vard mennum likur, og at hegdan fundinn sem madur, litilæckadi sialfann sig, og vard hlydugur alt til dauda, já alt til dauda á krossi (Phil. 2, 6-8).

Því Moses sage til fedranna; Drottinn ydar Gud mun senda ydur Spámann af brædrum ydrum líkann mér, hønum skulud þer hlyda í øllu því, sem hann bydur ydur? en þad mun ske, at hver sá sem ecki gegnir þessum Spámanni, hann skal afmádur verda medal þiódarinnar (Post. G. 3, 22-23). Drottins

andi

andi er yfir mer (seger Jesus) þess vegna hefur hann smurt mig; hann hefur sendt mig til at boda fátækum Evangelium, til at lækna þá sem hafa sundurmarid hiarta, til at kunngera þeim herteknu, at þeir skulu lausir látast, at þeir blindu skulu verda heilskignir, at þeir þrælkudu skulu fá frelsi, til at kunngera Drottinns gledelega ár (Luc. 4, 18-19). Drottinn sór og þann eid mun hann eigi riúfa; þú ert Prestur at eilifu líkur Melchisedech (Ps. 110, 4) því slíkan ypparsta prest byriadi oss at hafa, sem væri heilagur, saklaus, lítalaus, syndurum fráleytur, og til himna uppstigenn (Heb. 7, 26) og ver høfum stóran prest yfir Guds húsi, látum oss því frammgánga med rettskickudu hugarfari, og øruggu trúnadar trausti, med hiertum hreinsudum af vondri samvitsku, og likømum þvegnum í hreinu vatni (Hbr. 10, 21-22).

Hann mun stór verda og kallast Sonur hins hædsta, og Gud Drottinn mun gefa hønum hásæti hans, Fødurs Davids (Luc. 1, 32). Jesus sagde: mitt ríki er eigi af þessum heimi, værí mitt ríki af þessum heimi, mundu minir undirsátar hafa stridt fyrir þad, svo eg hefdi eigi komist í hendur Gydinga, enn nú er eigi mitt ríki þadan. Þá spurdi Pilatus: ert þú þó eigi Konungur? Jesus svarade: þú seger þad, eg em Konungur; til þess em eg fæddur og í heiminn kominn, at eg vitni um sannleikann, og hver sem er sannleikans vitni, hann hlydir mer (Joh. 18, 36-37). Þennann leidtoga og frelsara hefur Gud upphafid til sinnar hægre handar, svo at hann gefi Israel afturhvarf og Syndanna fyrirgefning (Post. G. 5, 31) því hønum ber at ríkia, þángad til Gud hefur lagt alla hans óvini undir hans fætur (1 Cor. 15, 25). Nád vors Drottins Jesu Christi veri med ydur øllum (Joh. Opinb. 22, 21) vertþú trúr alt til daudans, svo mun eg gefa þer kórónu lífsins (Joh. Opinb. 2, 10).

## Um Jesu Christi Sidgædi.

Christur hefur ogsvo lidid fyrer oss og efterlátid oss efterdæmi, at ver skyldum feta í hans fótspor; hann sem ecki drigde synd, og í hvers munni svik voru eigi fundin, hann illmælti eigi þegar hønum var illmælt; hann ógnadi eigi þegar hann leid; heldur gaf þad þeim sem rett dæmir (1 Pet. 2, 21-23). Gud smurdi Jesum af Nazareth med Heiløgum anda og krafte, hann sem geck umkring gerdi godt og læknadi alla sem voru af dieflinum undirokadir, því Gud var med hønum (Post. G. 10, 38). Jesus sagde (til sinna læriſveina) minn matur er at framkvæma þess vilia, sem mig sendi, og fullkomna hans verk (Joh. 4, 34) eg leita eigi mins vilia, heldur þess vilia sem mig sendi (Joh. 5, 30) lærid af mer (sagde Jesus) því eg em hógvær og af hiarta litilátur (Matth. 11, 29) því slikann ypparsta Prest byriadi oss at hafa, sem væri heilagur, saklaus, lítalaus, fralitur syndurum og til himna uppstiginn (Hebr. 7, 26).

## Um Fridþægingunа.

Enn efter þær sextiu og tvær vikur mun Christur líflataſt og einginn mun hans vera (Dan. 9, 36) því hann er særdur fyrer vorar yfertrodslur og sleginn vegna vorra misgerda; hegningin liggur á hønum til þess ver hefdum frid, og ver høfum feugid lækningu af hans sárum. Ver fórum allir villa vega sem saudir, sinn í hveria átt, enn Drottinn lagdi á hann einann allra vorra synda straff (Es. 53, 5-6) því þann, sem ecki var ser syndar medvitandi hefur Gud gert syndaoffur til þess ver yrdum rettlátir hans vegna (2 Cor. 5, 20). Christur elskadi oss og gaf sig siálfan út fyrer oss til fórnfæringar og slát-

run-

runaroffurs, svo at Gudi væri þad þócknanlegt (Eph. 5, 2) þer vitid at þer erud eigi med forgengilegu gulli og silfri frelsadir frá ydare fáfengilegre hegdan, sem ydur vár kend af fedrum ydrum, heldur med dyrmætu blódi Christi, svo sem lítalausts lambs, sem at sønnu var fyrerhugadur ádur grundvøllur veraldarinnar var lagdur, en byrtist á þessum sídustu tídum ydar vegna, ydar (segi eg) hverum þer eigid at þacka at þer nú trúid á Gud, sem uppvakti hann frá daudum og gaf hønum tignina, svo at þer trúid og treystid gudi (1 Pet. 1, 18-21) Jesu Christo, sem oss elskadi og hreinsadi-oss af vorum syndum med sínu blódi, og gerdi oss konunga og kennemenn Guds, síns Fødurs, se dyrd og lof at eilifu amen (Joh. Opinb. 1, 5-6). Lambid sem er slátrad, áskilid at medtaka magt, visdóm, lof, heidur, hátign og vegsemd (Joh. Opinb. 5, 12).

## Um Endurfædinguna.

Eg skal gefa ydur nytt hiarta (seger Gud) og nyann anda, og burttaka ydar steinhiarta og gefa ydur kisthiarta (Ez. 36, 26) madur nockur af Phariseum sem hét Nicodemus høfdingi Gydinga, kom til Jesu á nóttu, og sagde til hans; meistari! ver vitum, at þú ert kennisadir, kominn frá Gudi, því enginn getur gert þau tákn, sem þú gérir, nema Gud se med hønum. Jesus svarede: sannlega sannlega sege eg þer; án þess hver einn endurfædist, getur hann eigi vordid hlutakandi í Guds ríke (Joh. 3, 1-3) svo mørgum sem medtóku Jesum, gaf hann þá tign, at verda Guds Børn, þeim sem trúdu á hans nafn, sem eigi eru fæddir af blódinu edur holdsins lystingu edur mannsins vild, heldur af gudi (Joh. 1, 12-13) þer, sem erud endurfæddir eigi af forgengilegu heldur

ófor-

óforgengilegu sædi, af ordi Guds lifanda og eilifa (1 Pet. 1, 23) hver sem af gudi er fæddur yfervinnur verøldina, og þad sem yfervinnur verøldina, er vor trú (1 Joh. 5, 4).

## Um Rettlætingu af trunni.

Sannarlega í Drottni er, seger madur, rettlæting og styrkleikur, til hans skulu koma og skammast sín allir hans óvinir. Drottinn mun rettlæta og vegsamlega gera alla Israels afkomendur (Jes. 45, 24-25) enn nú er Guds rettlæti opinberad án løgmálsins, eins og løgmálid og Spámennirnir vitna: en Guds Rettlæti vegna trúarinnar á Jesum Christ veitist øllum sem trúa, því her er einginn greinar munur; allir hafa syndgad og allir hafa skort á Guds hrósi, og allir verda nú rettlætter án verdskuldunar af Guds nád, med þeirre endurlausn sem Jesus Christur hefur afrekad, hvern Gud tilsetti, at hann vera skyldi nádarstóll fyrer trúna á hans blód, til þess at hann syndi sina gædsku og þolinmæde í því, at fyrer gefa ádur drigdar syndir til þess hann vottadi nú á þessum tíma gædsku sína, svo at hann se bædi rettlátur, og rettlætandi hvern sem trúir á Jesum Christum. Hvar er nú sialfs hrosun? hún er utilokud; af hveru løgmáli? verkanna. Nei heldur trúarinnar løgmáli; nú ályktum ver, at manneskan verdi rettlætt fyrer trúna án løgmálsins verka (Rom. 3, 21-28) þeim, sem erfidar, betalast laun, ecki af nád heldur sem skyldu skattur: enn þeim, sem ecki erfidar, heldur trúer á þann sem rettlætir ógudrækinn, hønum reiknast hans trú til rettlætis (Rom. 4, 4-5) fullvissir þess at manneskan rettlætist ecki af verkum løgmálsins, heldur af trúnni á Jesum Christ, svo trúum ver á Jesum Christ til þess ver skyldum verda rettlættir af trúnni á

Christum og eigi af løgmálsins verkum, því eingin manneska verdur rettlætt af løgmálsins verkum (Gal. 2, 16), já vissulega, eg álit alla hlute einskis verda, hia þeirre ypparleguſtu þeckingu, sem Jesus Christur, minn Drottinn hefur meddeilt oss, hverar vegna eg hefi farid á mis vid allt annad og met þad einskis til þess eg ávinni Christum og yrdi hans, svo nú hefi eg eigi lengur mitt egid rettlæti af løgmálinu, heldur af trúnni á Christum, rettlætingu Guds af trúnni (Phil. 3, 8-9).

## Um Helgunina.

Vitid þer eigi at ranglátir munu eigi ødlast Guds ríki: svikid ydur eigi sialfa! hverki saurlifismenne blótmenn, hverke hórkarlar ne lauslátir, eigi þeir sem-skøm drygia med kellum, eigi þiófar, eigi ágiarnir, eigi drykkumenn, eigi lastmálir, eigi ruplsamir munu ødlast Guds ríki. Þessum likir voru nockrir af ydur, enn þer erud þvegnir; þer erud helgadir; þer erud rettlættir í nafne Drottne vors Jesú Christi og af vors Guds anda (1 Cor. 6, 9-11). Jesus Christur gaf sig sialfan út fyrer oss, svo at hann leysti oss frá aullu ránglæti og hreinsadi ser sialfum eignar þiód kappsama í gód verkum (Tit. 2, 14) avextir andans eru kærleikur, Fridsemi, langlundargød, blidleiki, godfysi, órdheldni, hógværd, hóffemi, mót þessu stridir eigi løgmálid: enn þeir Christnu krossfesta holdid med þess tilhneigingum og gyrndum. Ef ver lifum í andanum þá látum oss framgánga í andanum (Gal. 5, 22-25). Helga þá í þínum sannleika (seger Jesus) þitt ord er sannleikur (Joh. 17, 17) stundid fridsemi vid hvern mann, og helgunina, án hverrar einginn mun siá Drottinn (Hbr. 12, 14).

Um

## Um félags Skyldurnar.

Heidra fedur og módur, svo at þú lifir lengi í landinu, sem Drottinn þinn Gud mun gefa þer. Þú skalt eigi slá manneskiu í hel. Þú skalt ecki stela. Þú skalt ecki bera falskt vitni móti þínum náunga. Þú skalt ecki gyrnast hús þíns náunga; ecki kónu þíns náunga; ecki þión eda þiónustu kvinnu eda uxa eda asna eda nockud af því sem þínum náunga tilheyrir (2 Mosb. 20, 12-17). Kærleikurin se flærdarlaus. Hatid þad illa, enn lodid fast á því goda. Elskid hverannann innilega sem brædur. Hafid hverannann í heidri. Verid ecki latir í því, sem þer égid at gera. Verid glóandi í andanum; þiónid Drottni; verid gladir í voninni; þolinmódir í þrángingum; kostgæfnir í bæninni; örlátir vid þá Christnu sem eru fátækir. Verid gestrisnir. óskid jafnvel þeim góds, sem ósækia ydur. Blessid enn bölvid ecki. Gledist med glödum, og grátid med þeim sem gráta. Verid samlyndir; sækid eigi efter því háa, heldur haldid ydur at því lága, hygid eigi at þer seud öllum hyggnari. Gialdid eigi illt fyrer illt. ástundid rádvendni í augsyn allra manna. Se mögulegt svo hafid frid vid alla menn, at svo miklu leiti sem í ydar valdi stendur. Hefnid ydar eigi siálfir, elskanlegu! gefid reidinni rúm: skrifad er, hefndin er mín eg skal endurgialda seger Drottinn. hungri því óvinur þinn svo gef hönum at eta, þyrsti hann svo gef hönum at drecka. Þegar þú breytir svo þá safnar þú eldsglódum at höfdi hönum. Lát eigi þad vonda yfirbuga þig, heldur yfirvinn hid vonda med gódu (Rom. 12, 9-21). Allt hvad þer gered í ordi edur verki, þad altsaman gered í nafne Drottinns Jesu Christi, og þackid Gudi og Födur fyrer hann. Þer konur! verid mönnum ydrum undergefnar eins og sómir kristnum konum; þer menn! elskid konur ydrar og verid eigi illyndir vid þær! þer börn!

børn! hlydid Foreldrum ydrum í øllu, því þad líkar Drottne vel; Foreldrar! ertid eigi ydar børn til reidi, heldur alid þau upp med aga og ummvøndun til Drottinns. Þer þenarar verid húsbændum ydrum hlydnir í øllu, eigi augna þenarar til at vinna hylli manna, heldur hollir og dyggir og þad af gudhrædslu: alt sem þer gered, þad gered af alúd eins og þer ættud at vinna fyrer Drottinn enn eigi menn. Þer vitid at hiá Drottne munud þer fá til umbunar farsældina, því þer þiónid Drottne Christo; sá ránglátí mun og fá giøld fyrer hans ránglæti, og Gud ser eigi í mann-greinar álit. Þer húsbændur audsynid ydrum þenurum hvad rett er og jøfnudur; þer vitid, at þer hafid líka húsbonda á himnum (Col. 3, 17-25 og 4, 1). Ser hver manneskia á at vera hlydin yfirvaldinu; ecke yfirvald er til nema af gudi skikkad og þau yfirvøld sem eru til, eru skickud af gudi (Rom. 13, 1).

## Um þess sannchristna rett.

Fyrst ver erum rettlættir af trúnni, erum ver í sátt vid Gud vegna Drottinns vors Jesu Christi; hvers vegna ver og svo høfum atgáng med trúnni til þess nádar velgernings, sem ver høfum þegid, og vid gledum oss vid vonina um Guds dyrd; já vid gledum oss jafn vel í þrautunum, því ver vitum, at þrautir verka þolinmæde, þolinmæde reynslu, reynsla, von, enn vonin bregdst eigi, því Guds kærleikur yfir-gnæfir í vorum hiørtum vegna Heilags anda, sem oss er gefinn (Rom. 5, 1-5). . Svo er þá ecke for-dæmanlegt á þeim, sem eru Christnir, á þeim, sem eigi hlyda holdinu heldur andanum, því þad andlega lífsins løgmál Christi hefur frelsad mig frá løgmáli syndarinnar og daudans (Rom. 8, 1-2). Guds ríki er eigi innifalid í mat og drick, heldur rettlæti, frid og

fєgn-

føgnudi Heilags anda (Róm. 14, 17) vegur rett-látra er sem skínandi liós sem logar og lysir fram at hádegi (Ordsqv. 4, 18) allir hluter heyra ydur til, hvert heldur verøldin, líf eda daudi, þad nærverandi eda þad ókomna, allir hluter eru ydrir, enn þer erud Christs, og Christur Guds (1 Cor. 3, 21-23) ver geimuust af Guds mætti vegna trúarinnar, þeirra farsæld sem opinberast skal, á þessum sídustu tídum (1 Pet. 1, 5). Fadir seger (Jesus Christur) eg vil at þeir, sem þú hefur gefid mer, skulu og vera hiá mer þar sem eg er; svo at þeir siái mína dyrd, sem þú hefur gefid mer; því þú hefur elskad mig fyrr enn grund-vøllur veraldarinnar var lagdur (Joh. 17, 24).

## Um Gudsdyrkun.

Eg em Drottinn þinn Gud, þú skalt ecki hafa adra Gudi fyrer mer; þú skalt eigi gera þer nockud utskorid bilæti, ellegar líkneskiu efter því sem er á himnum uppi, ellegar því sem er í vautnum undir jørd-unni. Þú skalt ecki tilbidiá þad og ecki dyrka þad, því eg em Drottinn þinn Gud; eg em vandlátur Gud, sem straffa foreldranna misgerninga á børnum í þridia og fiórda lid, á þeim sem mig hata; og eg audsyni miskunsemi í þúsund lidu þeim, sem mig elska og vard-veita mín bodord. Þú skalt ecki sveria vid nafn Drottinns Guds þíns falskan eid, því Drottinn mun eigi láta þann óstraffadann, sem sver vid hans nafn falskan eid (2 Mosb. 20, 2-7). Hversu yndislegir eru þínir bústadir, Dróttinn alls heriar! einn dagur í þínum forgardi er betri, enn þúsund annarstadar. Eg kys heldur at vera vid þrøskuldinn í þínu húsi, enn at búa í tialdbúd ógudlegra (Ps. 84, 1-10). Gud sem hefur skapad verøldina og alla þá hluti sem í henni eru, hann sem er Drottinn himins og jardar

byr

byr eigi í musterum gerdum med høndum, hønum verdur eigi heldur þiónad med høndum manna, því hann þarf einskis med: hann gefur siálfur øllum, líf, anda og alla hluta (Postg. 17, 24-25) sannir tilbidendur eiga at tilbidia Fødurinn í anda og sannleika, því Fadirinn vill hafa þeshåttar tilbidendur. Gud er andi, og þeir sem hann tilbidia, eiga at tilbidia hann í anda og sannleika (Joh. 4, 24-25) þar er einn Gud og einn medalgángari milli Guds og manna manneskian Jesus Christur (1 Tim. 2, 5). (Jesus seger) eg em vegurinn, sannleikurinn og lífid; eingin kemur til fødursins nema med minne hiálp (Joh. 14, 6), sannlega sannlega sege eg ydur, hvers sem þer bidid fødurinn í mínu nafne, þad mun hann veita ydur, bided og munud þér ødlast svo at ydar saugnudur verdi fullkominn (Joh. 16, 23-24) þarat auki kemur andinn vorum breyskleika til lids, ver vitum eigi hvers ver skulum bidia, eda hvernveg sá sami andi bidur fyrer oss med þeigandi andvørpun; og sá sem rannsakar hiørtun skilur andans meiningu þá hann bidur Gud fyrer heiløgum (Rom. 8, 26-27) því eg valdi Abraham (seger Gud) mer fyrer vin til þess, at hann skipi sínum børnum og afkomendum at gánga veg Drottins, og at ræka sannsyni og rettvisi (1 Mosb. 18, 19) veled ydur í dag þann, hverium þer viled þéna. Eg og mitt hús vilum þióna Drottni (Josuæb. 24, 15). Þegar þú ætlar at bidia; gack þú þá inn í þit svefn henbergi, læs þú at þer dirum og bid fødur þinn affsidis, og Fadir þinn, sem sér þad leyni lega, mun betala þer opinnberlega. Enn þegar þer bidid, svo verid ecki margordir eins og heidingiar, sem halda, at þeir verdi bænheyrdir vegna mælgi þeirra: líkist eigi þeim, því Fadir ydar veit, hvers þer medþurfid, ádur enn þer bidid (Matth. 6, 6-8).

Um

## Um Drottinns dagin.

Minstþú hvíldardagsins, at þú helgir hann. Sex daga skaltþú vinna verk þitt, enn sá sioundi er Drottinns þíns Guds hvíldar dagur: á þessum degi skaltþú ecki vinna, hverki þú né sonur þinn, né dóttir þín ecki þión eda þiónustu qvinna, eigi þinn þræll eda gestur sem byr hiá þer, því á sex døgum skapadi Drottinn himin og jørd og sióin og þad sem er í þeim, og hvíldist á siøunda degi og helgadi hann (2 Mosb. 20, 8-11) þer skulud halda minn hvíldardag helgan, og óttast fyrer mínum helgidómi: eg em Drottinn (3 Mosb. 19, 36). Ef þú heldur þer frá vinnu á mínum hvíldardegi, frá þeirre vinnu sem þer er til hagnadar á mínum helgum degi; ef þú lætur þer þikia vænt um minn hvíldardag, og minn helgandag, sem á at brúkast med lotningu, svo at þú tignir hann med þínu frammferdi, haldandi þer frá því, jafn vel sem þer er kært, ia svo at þú eigi nefnir þad á nafn. Þá muntþú hlióta føgnud af Drottni (Es. 58, 13-14). Enn á fyrsta degi vikunnar þá lærsveinarnir voru saman komnir til at brióta braudid, taladi Paulus fyrer þeim, því dæginn efter atladi hann at reisa burt (Post. G. 20, 7). Eg vard frá mer numinn (seger Johannes) á Drottinns degi (Opinb. b. 1, 10).

## Um vantrúar og gudleysis Eftirkøst í tilliti til velgengni lands og lyda.

Heyrid himnar! og þú jørd hygg at því, hvad Drottinn talar: eg hefi uppalid børn til þróska aldurs, enn þau hafa fallid frá mer: uxinn þeckir sinn húsbonda, og asninn jøtu sins herra, enn Israel er rænulaus, min þiód skiniar ecki, ve se lastafullri þióð, þeirre

þióð sem er glæpum hladin, illvirku afkvæmi, gløtunar sonum; þeir hafa fallid frá Drottni; þeir forsmádu Gud Jsraelis, þeir yfergáfu hann (Th. 1, 2-4). Enn ef þer vilid eigi hlyda mer, og eigi gera alt þetta, sem eg hefi bodid ydur, og ef þer fyrerlítid mina setninga og foraktid mín løg, og forsmáid mín bodord, og riúfid þann sáttmála, sem eg hefi samid vid ydur, svo skal eg gialda ydur líku líkt: eg skal straffa ydur med hrædslu, uppdráttar sykı og brádri landfarsótt, sem svifti ydur sión og píni ydra sálu. Sá munud þer forgefins; ydrir fiándmenn munu uppeta þad, sem þer sádud til; og ef þer samt sem ádur eigi vilid hlyda mer, skal eg siøfalda (margfalda) ydvarra synda straff; eg skal brióta ydrar þverúdar drambsemi, og láta himininn verda ydur sem iárn og jørdina sem kopar: þer skulud erfida forgefnir og jørdin skal ecki gefa ydur gróda og tre en skulu eigi bera ydur ávøxtu; ef þer ennú þverskallist gegn mer, og vilid eigi gegna mer, skal eg leggia á ydur siøfaldt þyngra straff enn syndir ydrar eru stórar til (3 Mosb. 26, 20-27-28) þess vegna seger Drottinn; hverfid til mín aftur af øllu hiarta, med føstu, grát og kveini; sundurrífid ydar hiørtu, og komid aftur til Drottinns ydar Guds, því hann er nádugur og miskunsamur og þolinmódur og vægdarsamur; máske hann snúi vid, vægi, og eftir láti oss blessan (Joel 2, 12-14).

## Um Samleika makt og sigur Kristindómsins.

Eg brukadi ecki kænlegt mælsku snid, þá eg kunngerdi ydur máttuga tilkomu Drottinns vors Jesu Christi, heldur (sagde eg ydur) at eg siálfur hefdi verid siónarvottur hans hátignar. Fadirinn Gud sæmdi hann þeim mesta heidri, þá rødd þessi barst hønum (til eyrna) frá því hátignarfulla liómanda

 skyi:

skú: þessi er minn elskulegur sonur, á hverum eg hefi velþóknan. Þessa rødd heyrdi eg siálfur frá himni koma, þegar eg var med hønum á því helga fialli, enn ver høfum þó annars vissara nefuelega spádómanna, og þer gerid vel, at þer hyggid at þeim svo sem liósi, þat skin í myrkum stad, þángad til byrtir af degi og morgunstiarnan upprennur í ydrum skilningi, enn gáid þó þess fyrst og fremst, at eingin spádomur útleggur sig siálfann, því aldrei var spádómur frammfluttur af mannsins egin vild, heldur tøludu þeir heiløgu Guds menn tilknúdir af heiløgum anda (2 Pet. 1, 16-21). Guds ord er lifandi og krøftugt og beittara enn nockut tvíeggad sverd, þad þrengir ser midt inn í sál og anda, lidamot og merg og straffar hiartanna gyrudir og þánka (Hebr. 4, 12) Eg held Christi evangelium minu sóma (seger Paulus) því þad er Guds kraftur til sáluhiálpar hverum, sem trúir því, einkum Gydingum enn líka Grykkum, því Guds nád veitist Christs vegna øllum trúudum fyrer þad þeir trúa, eins og skrifad er: sá rettláti mun lifa vegna sinnar trúar (Rom. 1, 16-17). Og eg sá annann eingil fliúga þvert yfer loftid; sá hafdi eilist evangelium at boda þeim sem búa á jørdunni, hverri þiód, ættqvisl, tungumáli, og Fólki; hann heyrdi eg kalla hárri raustu: óttist Gud og dyrkid hann, þvíat sú stund, á hverri hann mun dæma, er fyrer hendi; tilbidid þann, sem hefer skapad himin, jord, sió og vatna uppsprettur (Joh. opinnb. 14, 6-7).

## Um daudann.

Manneskian fødd af qvinnu lifir stutta stund, og mettast af óróseini; hún vex sem blómstur, svo at hún verdi afskorin; hún lídur burt, sem skuggi og stadnæmest eigi, seu hennar dagar áqvardadir, hennar mánada

mánada tal hjá þer; hafir þú afmælt hennar æfi, getur hún eigi lifad lengur enn þú hefur ætlad henni. Svo snú þinum augum frá henni, svo at hún fai hvild, svo at hún geti gladt sig vid lifid, eins og daglaunari: því tred tyner eigi von, þó þad verdi um høgvid; þat uppyngist samt, og þess úngu greinir afláta eigi at vaxa, þó rót þess verdi gømul í jerdinni, og stilkurin deyi í moldinni, svo grænkar þad þó á ny af vatnsins dampa, og eins og nyplantad útbreyder greinir: enn manneskjan deyr og hnigur: manneskjan deyr, og hvar er hún, svo (Job. 14, 1-10). Optid hverfur aftur til jardarinnar, hvadan þad var tekid, enn andinn til Guds sem gaf hann (Pred. 12, 7) þess vegna eins og syndin kom inní veroldina af einum manni og daudinn vegna syndarinnar, svoleidis hefur daudinn inn þreyngt ser til allra manna, því allir hafa syndgad (Rom. 5, 12) þad liggur fyrer øllum mønnum einusinni at deia og þar efter kemur dómurinn (Hebr. 9, 27). Daudi hvar er þinn bróddur? helvíti hvar er þinn sigur? Syndin er daudans broddur, enn løgmálid er syndarinnar kraftur: gudi seu þackir, sem gaf oss sigurinn vegna vors Drottinns Jesu Christi (1 Cor. 15, 55). Eg heyrdi (seger Johannes) raust sem sagde til mín: skrifa þú: sælir eru þeir frammlidnu, sem deya kristnir her efter; andinn seger at þeir hvílist frá þeirra mædu, enn þeirra verk fylgi þeim (Joh. Opinb. 14, 13)

## Um upprisuna.

Margir af þeim sem sofa í jardarinnar dusti skulu uppvakna, sumir til eilífs lifs, sumir til sneipu og eilifrar hádúngar (Dan. 12, 2) undrist eigi yfer þessu, því sá tími kemur, á hverum allir þeir sem í grøfunum eru, munu heyra hans raust og þá munu þeir, sem godt hafa gert, upprísa til sælu, enn hinir til

fordæmingar, sem illa hafa gert (Joh. 5, 28 = 29) enn ef kungerd er Christi upprisa frá daudum, hvernveg kenna þá nockorir á medal ydar, at þeir daudu rísi eigi upp aftur. Upprísi eigi þeir daudu, svo er Christur eigi upprisinn: enn se Christur eigi upprisinn, þá er vor prædikun ónyt; ydar trú til einskis: ver værum falsvitni Guds, því ver hösum vitnad, at Gud hafi uppvakid Jesum frá daudum, sem þó væri ósatt, ef þeir daudu eigi upprísa. Upprísa eigi þeir daudu, þá er Christur eigi heldur upprisinn; enn ef Christur er eigi upprisinn, þá er ydar trú ónyt, þá erud þer ennú í ydrum syndum, og þeir kristnu, sem eru dánir, væru þá óluckulegir; enn nú er Christur upprisinn frá daudum, og er vordinn frumgródi þeirra framlidnu (1 Cor. 15, 12=20).

## Um dóminn.

Ver eigum allir at mæta fyrer Christi dómstóli svo at hver einn úr bytum beri efter því, sem hann hefir athafst í líkamans lífi, hvert sem þad er illt eda godt (2 Cor. 5, 10). Þegar mannsins sonur mun koma í sinni vegsemd og med hönum allir heilager englar, mun hann sita á sínu tignar hásæti, og allar þiódir munu safnast til hans, og hann mun atskilia hvern frá ödrum, eins og hyrder atskilur saudi frá kidum. Hann mun safna saudunum til hægri, en kidunum til vinstri handar; sídan mun kounungurin sega til þeirra sem eru til hægri handar: komid mins födurs blessudu, takid vid því ríki, sem ydur var ætlad frá veraldar upphafi. Þá mun hann einnig sega þeim sem eru til vinstri hlidar: farid frá mér þer bölvodu í eilífann eld, sem fyrerbúinn er diöflinum og hanns árum. Þessir munu þá koma til eilifrar pínu, enn hinir rettlátu til eilífrar sælu (Matth. 25, 31=46) og eg sá (seger Johan=

Johannes) stórann skínanda stól, og þann sem sat á stólinum, hvers tillit jørd og himin hræddust, og gátu eigi stadist; og eg sá þá daudu smáa og stóra standandi frammi fyrer gudi, og bókunum var upplokid; sú onnur bók, hverri lokid var upp, var lífsins bók; og þeir daudu voru dæmdir efter því sem skrifad var í þessum bókum, efter þeirra verkum. Siórinn skiladi aftur þeim daudu, sem voru í hønum, og grafirnar þeim sem í þeim voru, og þeir voru dæmdir, hver efter þeirra verkum (Joh. Opinnb. 20, 11-13)

## Um Helvíti.

Hann mun láta rigna yfer ógudlega eldingum og brennusteini; drepandi stórmur mun verda þeirra hlutfall (Ps. 11, 6) í Helvíti, í óslockanligum eldi; hvar þeirra ormur eigi deyr, og eldur eigi slocknar (Mark. 9, 43-44) þeir munu drecka Guds reidevín, sem helt er óblondudu í hanns reidi bikar, og þeir munu med eldi og brennusteini pínast í augsyn heilagra engla og lambsins, og þeirra kvala reik mun at eilífu upp leggia; og hverki nótt ne dag munu þeir ró hafa (Joh. Opinnbb. 14, 10-11).

## Um Himnaríki.

J míns Fødurs húsi (seger Jesus Christur) eru mørg híbyli: enn væri eigi svo, mundi eg eigi hafa sagt ydur, at eg færi hedann at tilbúa ydur bústad; og ef eg fer burt at tilbúa ydur bústad, svo kem eg aftur, og tek ydur til mín, svo at þer seud þar, sem eg em (Joh. 14, 2-3). Því ver vitum, at þó at vor jardneska tialdbúd falli, hefur Gud tilbúid oss annad hús (sem eigi er med høndum gert) eilíft á himn=

himnum (2 Cor. 5, 1) óforgengilegur, gallalans arfur, sem aldrei skemmist, er oss geimdur á Himnum (Pet. 1, 4). Gud mun afþerra øll tár af þeirra augum; daudi mun eige framar til vera, hverki sorg ne qvein, ne mæda mun framar til vera, því hid fyrra er umlidid (Joh. Opinbb. 21, 4) engir lestir skulu herefter til vera. Guds og lambsins hásæti skal standa í þessari borg; hans þenarar skulu hønum þióna; þeir skulu siá hans andlit, og hans nafn skal vera í þeirra ennum. Þar mun engin nótt vera, og menn munu hverki þurfa lióss ne sólar birtu, því Gud Drottinn lysir þeim, og þeir munu ríkia at eilifu: þettad er víst og satt. Drottinn Gud hinna helgu spámanna sendi sinn engel til at byrta sínum þiónum þad ske mun brádlega. (Joh. Opinbb. 22, 3-6) elskanlegu! nú erum ver Guds Børn, og enn þá er eigi augliós vordid hvílikir ver munum verda; enn ver vitum, at þegar Christur kemur, þá skulum ver verda hønum likir; ver munum siá hann eins og hann er; enn hver sá sem hefir þessa von til hans, hann hreinsar sig siálfann, (svo at hann verdi hreinn) eins og hann er hreinn (1 Joh. 3, 2-3).

---

Þessi eru sannarleg Ord Guds (Joh. Opinbb. 19, 9). Þess vegna takid vid þeim, eigi sem þau væru manna ord; heldur, eins og þau vissulega eru, Guds Ord, hver sig syna kreptug í þeim sem trúa (1 Thess. 2, 13) ransakid Ritningarnar (Joh. 5, 39) sem geta uppfrædt ydur til sáluhialpar med trúar lærdóminum um Jesum Christum (2 Tim. 3, 15) varist at teliast undan at heyra þann sem talar; því hafi þeir eigi sloppid strafflausir, sem færdust undan at heyra þann,

sem á jørdunni taladi Guds bod, munum ver miklu sídur umflýa straffid ef ver føllum frá þeim sem kom frá himnum (Hbr. 12, 25). Því hver sem skammast sín fyrer mig og mín ord, vid þann mun mannsins sonur eigi kannast, þá hann kemur í sinni og Fødur síns dýrd, og heilagir englar med hønum (Luc. 9, 26). Mer þiki sómi at Christs evangelio, því þad er Guds kraftur til sáluhiálpar hverum þeim, sem trúir (Rom. 1, 16). Sá sem vattar þetta, seger: eg kem brádlega; amen já, kom Drottinn Jesu. Nád Drottinns Jesu Christi veri med ydur øllum! amen (Joh. Opinbb. 22, 20-21).



Kaupmannahøfn.
Pryckt hiá Sebastian Popp, at forlagi Sira Johns Patersonar, árum efter burd vors herra Jesu Christi 1807.

